# Guds Barna
# Bæna-Fórn,

á

Morgna, Qvöld og daglega,

samt á

## Hátídis-dögum

og

## Missiraskiptum.

Ad mestu leiti samantekin af
Bjarna Arngrímssyni,
Sóknapresti til Mela og Leirár, í
Borgarfjardar Sýslu.

Qvöld, Morgna og Middegi vil eg kalla á
minn Gud, og hann mun heyra mig.
Psálm. 55, 18.

Beitistødum, 1816.
Prentud á kostnad ennar konúnglegu íslendsku
Vísinda Stiptunar, af Faktóri og Bók-
þryckjara, G. J. Schagfjord.

# Til Lesarans.

Frá því út var seldt Bæna-qverid af 1798, hafa margir eptir því spurt; þessum og fleirum, er máské vera kynnu sama sinnis, til vilja, enn þótt dýrtíd mesta á Pappír og øllum Prent-efnum, sem ødru, í vegi standi, lætur hin konúnglega íslendska Vísinda Stiptan þad á ný uppleggja, ecki einúngis svo lagad, sem sjá má á einstøku stad, er þurfa þókti, heldur umbætt og aukid daglegum Bænum, samt tveimur í útgaungu Sumars og Vetrar, í von þeirri: ad heidvyrdri

Al-

Alþydu ecki muni þykja þeim ofaukid, helldur máske daglegu Bænirnar ad þvi leiti hentari til andaktar ørvunar, sem þær snerta alþýdlegri trúrækais efni, og erú nidurskipadar eptir Jesú kjarnaríka Fadir vor! Mætti Qversins útgáfa stydja ad þeirri nytsemi, sem Uppbyrjari og Fullkomnari trúar vorrar, med Bænarinnar bodordi tilætladi, nefnilega: ad vidhallda kristilegri trúrækni og samvitskusemi, þá er Stiptunarinnar tilgángur med þessa Tilraun sína, eins og Mannelskarans bón uppfylld, og ordin ad áhrins-ordum.

---

I. Vikn-



I.

# Viku-psálmar og Bænir.

## Sunnudags Morgun-psálmur.

Lagid; Þjer þackir gjörum.

Ljómar ljós dagur, lifs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burt-hrekur; enn Fødur alda, eilifum gjalda, þöck skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og náð róma, Guds geymslu bestu, gjædsku nægd mestu; packlátir þreyum, þar til burt-deyum, synd hatur segjum.

3. Vort kall vel ræksjum, vort gagn rétt sæksjum, óttumst Gud eina, elskum dygd hreina, sátt og samlyndi, sem er lifs yndi, bæn og blidlyndi.

4. Verum von-gódir, vel þolinmódir, þrautir afþreyum, þó hér strid heyum, sist Drottinn sefur, sinni likn hefir, heit-id, hjálp gefur.

5 Mitt lîf, minn andi, mîn raust syngjandi, o Gud upphæda! um þinn pris ræda, vel sie vidtamen; vegsemd skal samen, hér og hvar, Amen!

## Sunnudags Morgun-bæn.

Mín sál lofar Drottin, og minn andi gledst î Gudi Frelsara mînum! því hann hefir gjort mikla hluti vid mig; hann hefir minnst sinnar miskunar, og volduglega vardveitt oss î næturinnar myrkrum, géfid oss vært ad sofa, og heilbrygdum upp aptur ad standa; offrum þar fyrir Drottni þacklætinn, og gjoldum ennm hærsta vor heit! það sé vor ydja og hjartans yndæli nú strax á þessum Drottinsdags morgni; því þessvegna erum vér svo dásamlega verndadir î nótt og allt hingad til. Gleymum ecki, ad dagurinn er einkum til þess ætladur og géfinn oss, ad vér á honum minn-

ast

ast skulum Drottins dásemda, og helga vora sálu med bæn og and=akt, honum til þjónustu. Drottinn Gud! án þín megnum vér eckert; send oss því þinn Anda, sá er upp-lýsi oss og leidi í allann sannleika, svo vér hafa kynnum vora lyftingu í þínu logmáli. Géf oss med hreinu hjarta ad byrtast fyri þér; upplýs voru skilning; helga voru vilja fyri þitt ord í dag, svo vér af þess heyrn og lestri færa kynnum mikinn ávöxt þér til dýrdar, en oss til ríkuglegra sáluhjálpar nota, fyri voru Frels-ara Jesúm Krist, Amen!

## Sunnudags Qvöld psálmur.

Lagid: Pock sie hier gód gjord.

Sólin rann, ljós leid, ljúfur Gud mig styrdja, í dag vann, og neyd, allri bu t ad rydja, af því hans er g eid, öllum líku, ad bidja, enn skal mín ydja.

2. Veit mér þrótt, veg þinn, vel, e Gud! ástunda, og, ad skjótt, eg finn,

enda lífs, ígrunda, svo þefsi rött hug minn, hvoan burt þá skunda, til fegins funda.

3. Veik mín dáð æ er, abl og mentir dvína, gjörvallt ráð, Guð! þér, gef eg mitt, andsýna, vyrðstú náð í nótt mér, nú eg fel í þína, umsjón önd mína.

4. Mér ei neyð mun þá, mæðu' og qvölda valda; ef lífs-skeid og þrá, endar helid kalda, géfst mér þreyd, Guð sjá, gleði' og dýrð margfalda, um aldir alda.

## Sunnudags Qvöld-bæn.

Drottinn! þér einum tilheyrir dýrdin og heidurin̄, þacklætid og lofgjördin fyrir allt gott ofs veitt og géfid, og einkum fyri þessa dags dýrmætu velgjördir. Eptir þin̄i mikilli miskunsemi, hefir þú ecki einúngis vardveitt vorn andardrátt, gladt og endurnært vort líf med margföldum gædum, heldur þar á ofan frambodid ofs, í þínu sannleiksins ordi, lífid og sáluhjálpina fyri Jesúm Krist; kén̄t ofs ad þeckja medölin til vorrar betrunar, og

sýnt

synt oß mátan hvornig vér lifa ættum, svo vér réttilega kynnum ad færa oß í nyt og gledja oß vid þínar gáfur, gætum vongladir umborid mótlætid, og fengjum stadist á hinni vondu tíd. Þú hefir í þínu heilaga ordi látid sannfæra oß um þad, sem vér annars daglega þreifum á í voru lífi: ad þú ecki viljir syndugs manns dauda, heldur ad hann betri sig og lifi, já, lifi hér svo farsæll, sem unnt er í þeßu daudlegleikans holdi, en eilíflega fullsæll annars heims. O! ad allt þetta væri oß nú ecki þegar gleymt, heldur ad vér í qvøld út af sofna mættum med þeim einlæga ásetníngi: ad komanda morgni og alla vora æfi hédanaf, ad framqvæma þad í verkinu, sem vér af Guds Ordi numid høfum; svo verdur svefninn oß í nótt og allar nætur vær og bleßadur, og vor sídasti dauda-dúr sáluhjálplegur inngángur til eilífs ljóß og lífs, Amen!

## Mánudags Morgun-psálmur.

Lagid: Herra! þjer skal heidur og vyrding gr.

Morgun-stundin mig þin skjæra kætir, mér nátt-blundinn gefinn væra, sæt-ir, Gud! eg beidi, glæp mig sneidi, gæfu leidir, greidi og neydir bæti.

2. A dags rôli og í bôli náda, auduu-þjól þô billtist, skjólid dáda, veri landi, voru og standi, varni grandi, Gud, þugg-andi þrjá-da!

3. Biltíng jardar, breytíng daga og nætur, beint áqvardar; Gud svo hagar mætur, eins náttblund, sem árdags stund, og adrar mundir, kæta lundir lætur.

4 Ef hér slædast ad vandrædi sjáum, oll þau g ædast, ôhrdar gædi er fáum; heims um svædi, hug þô mædi, hrygd, voinadi, ædra nædi náum.

5 Mig vesælann, minn Jesú! ásjádu, mér ynvælann fegnud trúar ljádu! tíd er straumur, tími naumur, tál heims glaum-ur; ad mér aumum gádu!

6. Þessi dagur þá lífs-tídum hallar, þær burtdragast hljóta um síd gjörvallar. Þeim Alvalda, þeck skal gjalda, þann margfalda, prís, um aldir allar.

## Mánudags Morgun-bæn.

Lofa þú Drottiñ, mín sál! og allt hvad í mér er vegsami hans heilaga nafn! Þig viljum vér þacklátir prísa, vor Skapari og vor Gud! sem oß vardveitt hefir frá allri óluckn á aflidiñi nóttu, géfid oß værd og ró, og med endurnærandi svefni styrkt svo vora krapta, ad vér gétum nú med hraustum líkama og gladværum anda gengid til vorra sýslana, mætt dagsins mædum, og dýrkad þig med trúlyndu ervidi í þeirri stétt, sem þín alvísa forsjón hefir oß í setta. Æ! allt eru þetta fødurlegar velgjørdir vid oß óverduga, gódi Gud! þó vér svo sjaldan høfum vid þær kañast, og, því verr! eñ sjaldnar brúkad þær svo trúlega, sem þú tilætlad hefir. Fyrirgéf, mildi Fadir! vora vangætslu, fyri Jesú skuld! og géf oß náð þína framvegis, ad vér ætíd miñugir séum, hvørjum vér høfum líf og hrausta

krapta ad þacka, og til hvors og hvörnig vér verja egum beßum dýrmætu gáfum, svo vér ætid séum vißir um þína velþócknun á oß. Lát þeña þánka vakandi vera í vorum sálum á þeßum degi, í ollum vorum verkum og umsvifum, þá munu vor fyritæki vel luckast, þín nád fylgja oß, og þitt fulltíngi styrkja oß; því hefir þú lofad, og þín loford bregdast aldrei; oll þín fyrirheit eru já og Amen!

## Mánudags Qvøld-psálmur.

Lagid: Láungar mig í lífshøll.

Hvøld er þæguſt þjádum, því hán hreßíng' tilbýr, Guds ad gædsku rádum, gjørdist nóttin mørg hýr, skjær frá lýdi' og ládum, laungum þegar sól flýr, aptur værd adsnýr.

2. Lof þeim Lífs-forkíngja, líf sem gømir vort þrátt, sætlega skal sýngja, sál og túnga mín hátt, nýrri nád uník' ngja, nú mig lætur sinn mátt, og hlynnir ad dátt.

3. Ná

3. Nú áfalla nótt vann, nádir lúdir sá menn, allann hennar óttann, ysirguæfir værd enn, lífs umferdar flóttann, sarsæl endar hvíld senn, laun sáum þá þrenn.

4. Mína daga mig lær, minn Gud! telja svo hér, ad eg skynji allnær, er sídasta qvøld mér, endlíg þegar øll fær, æsistundin hjá þér, þá betra líf sjer.

5. Mér hlíf minn Gud vel eg, mínum lífs á vegi, aldur hvar sem el eg, eins á nótt og degi, forsjón hans mig fel eg, fyri tign hans hnegi, og ædst lof segi.

## Mánudags Qvøld-bæn.

Vertú hjá oss, Drottinn! því ad qvølda tekur; dagurinn er þegar lidinn og myrkrid yfirfellur. Ofteljandi eru þær háskasemdir, sem oss og voru veika lífi máské búnar séu á þessari nóttu; æ! vér veikar og skammsýnar manneskjur þeckjum þær hvorki né sáum þeim afstýrt. Vor máttur er rír, en vodinn hvervetna, þorfin mikil; vertú því ecki fjærlægur, heldur stattú hjá oss, Drottinn,

vort

vort hjálprædi! á þér einum er öll vor von, lát oß ecki til skaña verda. Þú eiñ þeckir grant og sjer hvílíkt skadrædi þeßi nótt máské hafi oß búid, þú veitst líka ráð og medöl til ad afvenda því; þiñ er mátturinn og dýrdin ad eilífu! Banna öllum voda ad granda oß eda nockru því, er þú oß géfid hefir til yndis og nota í lífinu. Þín nálægd umkríngi oß, þiñ máttur hlífi oß, þín forsjón vaki yfir oß; þá kañ oß eckert íllt ad hend‑da, svo hlýtur ógjæfan sjálf ad snú‑ast oß til værdar og heilla. Í því trausti leggjum vér oß óhultir til svefns, offrum þér audmjúku þack‑læti fyrir dagsins velgjörnínga, og afhendum oß svo, med lífi og sálu og öllum efnum, í þínar hend‑ur. Vertú hjá oß í voku og svefni, vertú vor Gud í lífi og dauda, Amen!

Prid‑

## Þridjudags Morgun-psálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Ljósid dags fagurt ljómar enn, í f breidir út og gledi' í senn, minn fyrsti þánki þvi nú sé, þakklæti Gudi láta' í tje; ad eg upprísinn frór og frí, farid gét til míns verks á ný.

2. Í værdar skauti sætt eg svaf, svefninn mér nýa krapta gaf, minn líkam', sál og hús mitt hér, í hendi geymdir, Drottinn! þér, sú födurlega forsjón þín, fordad hefir oss neyd og pín.

3. Hér fyrir sál og málid mitt, minn Gud! vegsámar nafnid þitt; míns hjarta traust og athvarf allt, á medan lifi' eg, vera skalt; því hvörn sem á þér hefir trú, Herra! ei yfirgéfur þú.

4 Hjálp! eg uppfylli hér í dag, hvad þú baudst og minn styrkir hag, ætíd stunda med allri gát, annara' og mína velferd' át; fótsporum Jesú fylgja hér, svo fái' eg himna dýrd hjá þér.

## Þridjudags Morgun-bæn.

Lofsýng þú önd mín Drottni Gudi þínum, þínum verndara og vid-
hald-

haldara, er svo fødurlega hefir vak-
ad yfir oß med hlífd sinni og vard-
veitslu á umlidiñi nóttu, ad eckert
vondt hefir nád ad snerta oß né þad
oß vidkémur: myrkrid gjørdi hann
oß ad verju, hvílurúmid ad grida-
stad, svefniñ ad endurnæringu, og
nú géfur hañ oß med nýum degi nýa
reksemd um þad, hvørsu hjartan-
lega gódur og gædskurkur Fadir og
Verndari hañ er siña vanmáttugu
barna. Vér viljum því uppvakn-
adir byrja þína lofgjørd, framtelja
þínar velgjørdir, og med hjartans
þacklæti vidurkéña vorn óverdug-
leika til þeirra, og alls þeß góda, er
þú á aflidiñi nóttu og allt hingad til
hefir audsýnt oß. Æ! hvad erum
vér, Drottiñ! ad þú audsýnir oß svo
mikla hluti, ad þú þañig sýnir á oß
stærd þinnar miskunar og trúfesti.
Já, því meira gott, sem þú gjørir
oß, því framar viltú locka oß til
elsku og hlýdnis vid þig; æ! skyld-
um

um vér á þeßum degi neita þér, gódi Fadir! ad fylla svo notasæla skyldu vora? Nei, í þínum krapti viljum vér gánga á móti dagsins freistíngum; stattú oß til hægri handar, svo vér ecki hrøsum, engañ hlut adhyllumst, sem þú bannad hefir, eckert framar ástundum, enn ad þócknast þér, og verda sælir í elskuñi t:l þín; svo verdum vér bleßadir af þér, bleßadir í iñgángi og útgángi, bleßadir fyri Jesúm Krist, Amen!

## Þridjudags Qvøld-psálmur.

Lagid: Hjarta, þánkar, hugur, sinni.

Ljóß á væng jnum leid einn dagur, lengst í vestrid frá oß inn; einn þá veitst hvørt annar fagur, í austri rennur nockurt sinn, Herra Gud! sem hefir rétt, himinljósum midin sett; ótal virsku veikra ljóma, vald og gædsku' er þína róma.

2. Pér af hjarta þeckum gladir þenna lidinn sæla dag; øllum meinum afverndadir, allra leitst í mildi hag; gef ad minnumst allir á: enn nær dauda var oß sá,

aꝺf þól lífid vel ſvo vøndum, viß ſé blífd
í þínum høndum.

3. Blund á oß lát ſætann ſíga, ſig
hér þinni Fødur-vøru, í nótt, ſem máſke-
náføld hníga, nú þín audmjúk fela børn.
Soſni augad dauda-dúr, draumi ſálin
vakni úr, frá nátt-dægra dymmu hafin,
dýrdar ljóſi þinu vafin.

## Þridjudags Qvøld-bæn.

Gódi himneſki Fadir! í þér lifum,
erum og hrærumſt vér, frá þér
einum flýtur øll góð og øll fullkom-
in gjøf nidur til vor; af náð þiñi er-
um vér til, og þín trúfeſti lét oß af-
lifa þeñañ dag; þad vidurkéñir vor
ſála med hjartans þacklæti á þeßari
qvøldſtundu. Fadir! þín gódgirni
er og hefir verid yfirgnæfanleg yfir
oß, en vér høfum ſyndgad; vér høf-
um notid þiña velgjørda, og gladt
oß vid þínar gáfur, en tídum gleymt
þér, gjafaranum allra godra hluta,
og þo hefir þú eñ í dag ecki látid þér
leid-

leidast ad gjøra oss til góda. Þú hefir berndad oss frá ollu skadrœdi, og uppfyllt alla vora naudþurft, svo vér því fúsari og varhygdarsamari vera skyldum til ad lifa þér einum í heilagleika og réttlœti; en, œ! vort gáleysi! dagurinn er lidinn, margt gott er á honum forsómad, sem vér þó áttum og kunnum ad gjøra, og margt þad íllt adhafst, er þú bannad hefir; þad vitnar vor samvitska. Æ! ef þú nú vildir gjøra vid oss eptir vorum tilverknadi, þá yrdi nóttin hegníngar- og eymda-nótt, og sœngin bana-sœng; en þad hugbreystir oss, ad þú ert óendanlega gódur og miskunsamur Gud, þessvegna vogum vér audmjúkir ad bidja: lát ecki þína nád vid oss med deginum enda taka. Fyrigéf! fyri Jesúdýra dauda, fyrigéf voxar margfoldu syndir, og frelsa oss frá þeirra straffi og ollu íllu á komandi nóttu. Vér erum þess fullvissir, ad þú heyrir

ir vora audmjúku bæn, þvi hjá þér er mikil fyrigéfning, Amen!

## Midvikudags Morgun-psálmur.

Lagid: Hvørr sier fast heldur.

Hátt upp i hædir, mitt hjarta lypti sér; Gud, sem nú grædir, mig gledi, lofa ber; nyann dag vott um nya' eg sje, nád, nú sem lætur :,: nádugur Gud i tje. :,:

2. Hans nádi heyra, þá hóf eg andvarp klockt, fúst Fødureyra, fann mína naudsyn gløggt, þá fyrsta byrjast þørfin vann, um ásjá bad eg, :,: og Amen! sagdi hann :,:

3. Gud! hvørju gjalda, gjøf þína má eg nú? þeck þúsundfalda, þér ber eg fram i trú, ad um mig hugad enn sé þér, gef gáfur þínar :,: ad gódu verdi mér. :,:

4. Enn framar feti, færist eg lífs á skeid, gef æ eg géti, gengid fram dygda-leid! takmark míns lífs sé takmark þad, oß fysi' ad finna, :,: nær flytjumst eillífd ad. :,:

## Midvikudags Morgun-bæn.

Lofad og vegsamad sé þitt dýrdarfulla nafn, Drottinn Gud! sem enn

eñþá í nótt audsýnt hefir oß vægd og miskun, hlift oß vid øllu maklegu syndastraffi, neyd og ólucku, en géfid oß rósamañ svefn og hæga hvlld; vora krapta hefir þú endurnært, og vidhaldid vorri heilsu. Allt gott þyggjum vér af þiñi mildu hendi; þú fyllir vor hjørtu med fagnadi, og géfur oß, jafnvel hér á jørduñi, ad njóta margskonar unadsemda og ánægju í lífinu. Øll þín verk og vidhøndlan vid oß, er einskjær nád og gódgirni; þu hryggir og typtar oß, svo vér því fegnari verdum hugg uniñi; þú sendir oß mótlætid, til ad audmýkja oß, og læra ad meta og smacka glediñar yndæli. Nóttin og myrkrid miñir oß á, hvørsu dýrmætur velgjørníngur dagurinn og ljósid er, já, allt þad er þú gjørir sé harla gott. Géf oß med þeßu hugarfari ad taka hvørju því, sem oß mæta kañ í dag, veri þad blídt eda stríd, þad er oß þó allt hollt og bleß-

ad af þiñi hendi, þegar vér ad'eins lærum ad færa oß þad í nyt eptir þiñi tilætlun. Vardveit og bleßa oß þínar gáfur, og géf oß ad njóta þeirrar gledi af þeim, sem þér er þócknanleg. Bænheyr oß, og uppfyll vora naudþurft í dag, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi, Amen!

## Midvikudags Qvöld-pſálmur.

Lagid: Rís upp, mín ſál! ad nýu nú.

Fyrir gott allt þig gefgum vér, Gud! ſem oß nád og miſkun tjer, eg þó ſé morgu minna, líknſamt géd þitt, lofqvædi mitt, láti nád hjá þér ſinna.

2. Hjálp í dag tjedir mikla mér, mig hjartanlega tókſt ad þér, bænheyrdir blídr ſem Fadir, mig og mitt hús, miſkunarfús, frelſtir og forſorgadir.

3. Allt hvad eg er og andi ſá, í mér gladvær, ſem hugſar á, ad þín dýrd eblaſt nædi, allt hvad minn hag, eblidi í dag, eru þín meddeild gædi.

4. Eptir þinni elſku og mátt, annaſtú mig um þeßa nátt, ſjá ei til ſýnda minna,

í daud-

i daudans neyd, allsherjar Gud! adstod láttu mig finna.

## Midvikudags Qvøld-bæn.

Eilífi, óumbreytanlegi Gud! vorir dagar burtlída sem skuggi, og allir hlutir kríngum oss umbreytast, en þú ert hinn sami ad eilífu, þín ár þrotna aldrei, því hjá þér er engin umbreyting; þín miskun og trúfesti er enn hin sama, sem hún frá eilífd verid hefir; þessvegna lifum vér, o Gud! á þessari qvøldstundu, og høfum, fyri þína nád, útendad daginn án slísa og ólucku. Odaudlegar þackir séu þér fyri þad, þú géfid hefir oss ad þeckja þig eilífann og óumbreytanlegann Gud, sem aldrei kann ad bregdast þeim, er á þig vona. Dagurinn er lidinn, ljósid flýr oss, allt er forgengilegt; en þad er vort traust og huggan midt í óstødugleikanum, ad vér egum þig ad, þú ert vort ljós og hjartans hlutskipti ad eilífu.

Hing-

Hingad til hefir þú verndad oß, og vidhaldid voru lífi; virdstú ad framhalda sømu gædsku vid oß: vardveit oß mildilega á komandi nóttu. Æ! þó vér séum þeß ómaklegir, sakir vors óstødugleika í øllu gódu, þá samt vertú oß nádugur. Forlát oß dagsins margføldu syndir, og syndú oß veikum vægd, fyri Medalgángarans Jesú forþénustu sakir, Amen!

## Fimtudags Morgun-psálmur.

Lagid: Hjarta, þánkar, hugur, sinni.

Ást þína, Gud! enn mér bodar, upprennandi morgun-sól; þig ad prísa', er vardir voda, vera ljedir hølld og skjól, fyrst skal ydja' og munnsins mál; mín af blundi hreßta sál, lyptir sér í himna hædir, um hátign þína' og miskun rædir.

2. Blunds í fadmi' eg lá sem lidinn, líkn þín vakti' og til mín sá; endurnærîng, n di' og f idinn, nádug veitti þín forsjá, enn mér nýtt gafst aptur fjør, ǫ́tal blóst mér heilla kjør, er þú vildir ad eg hlyti, uppvaknadur, og þeirra nyti.

3. Lífs þeß krapta áttú alla, er mér gafstú nýtt í dag; til þín þenkja' og þig ákalla, í þrautum skal og gledi=hag, lífs míns Fadir! lögin þín, lífs=regla sé jafnan m'n, yfirvegan ástar þinnar, unadsemdin sálar minnar.

4. Eg vil þín med lotníng leita, og lífs vid sporid finna hvert, í elsku' og dygd þér eptir breyta, eins heeinskilinn leynt sem bert. Þá minn vilja og veikleik sjer, vertú aldrei fjærri mér; leid mig svo fram lífs hvørn daginn, loks ad dýrdar ert'eg haginn.

## Fimtudags Morgun-bæn.

Í frá uppgaungu sólarinnar, allt til hennar nidurgaungu, sé nafn Drottins vegsamad! þú hefir skapad daginn til ervidis, en nóttina til hvíldar oss og öllum skepnum. HE! hvad innilegu ástar þacklæti erum vér nú ecki skyldir ad offra þér á þessa dags morgni, fyri svo marga hvíldar-nótt og værdar-blund, er vér allt híngad til þegid höfum, en vér þó sjaldnast þeckt höfum, því sídur þeg-

id sem velgjørd af þíñi góðgjørnu hendi. Fyrigéf, o Fadir! vort athugaleysi, fyri Jesú skuld! og meðtak í náð það ydrandi þackar offur, sem vér nú í hans nafni framberum fyri þig: vér viljum í dag og daglega hédanaf sýna vort þacklæti ávaxtarsamt í verkinu; vér viljum láta það ásañast í ordi og athøfnum, að vér ecki til forgéfins þegið høfum þína náð, og notið verndar og vardveislu í nótt og hingað til; þér viljum vér þjóna, þig elska og þér hlýða; styrk oß með þínum krapti til að framqvæma þeña góða ásetning í dag, svo vér lifa mættum þér til dýrdar, trúlyndir og árvakrir í voru kalli og erfiði, ávaxtarsamir í guðhrædsluñi, stødugir í bæniñi, heitir í þacklætinu og lofgjørdiñi til þín, þeña dag og alla tíma til æfiloka, Amen!

Fimtudags Qvøld psálmur.

Lagið: O! Fadir himneski og eilífi Guð,

Himin-sól vendi í hafsins skaut inn, húmid oß bendir til værdar um sinn, leid svo til enda einn lífs-dagur minn, líka vannstú senda mér, Drottinn!

2. Þér, blídi Fadir! lof þýdasta ber, þú mig verndadir og öllu frá mér, grandi vísadir þín gnæfandi hjer, gædska blessadi hvad mitt er.

3. Þú, sem vel greidir mér gæfunnar stig, gjör þad eg beidi: þín Födur-hönd mig, anniist og leidi, min önd örugg sig, í lifi' og deyd reidir á þig.

4. Öll skal svo hrundin burt ángist og þrá, er værdar-stundin mér gledileg þá, sídasti blundur þó sígi mig á, sælum Guds fundi mun eg ná.

## Fimtudags Qvöld-bæn.

Gud! vertú oß syndugum líknsamur! dagurinn er ad qvöldt kominn, og vér svo einum degi nær fluttir eilífdinni, vorum reikningsskapar og uppskéru tíma; vitni nú vor samvitska, hvörnig vér búid höfum oß undir hann í dag. Æ! mörg tækt-

tækifæri, sem oss á deginum fram-
bodist hafa til gods, eru midur hag-
nýtt enn vera skyldi, og fleirum þó ad
eilifu sleppt, mörgum heillastund-
um onytsamlega eydt, margir dýr-
mætir velgjørningar þánkalaust af
oss medteknir og gálauslega brúk-
adir, eru í dag ónýttir á oss. Æ!
margvíslegt er vort gáleysi! allt
þetta vitnar nú í gégn oss, hvörsu
þúnglega vér erum undir syndina
seldir, hvörsu lítid oss dag frá degi
ágengt verdi ad fullkomnast í elsk-
unni, í þacklætinu vid þig, og hlýdn-
inni vid þín blessud Bodord; til þessa
hefir þú þó nádarsamlega sparad oss
í dag, og svo marga daga, sem vér
lifad høfum; æ! gacktú þo ecki í
réttlætis dóm vid oss, gódi Fadir!
fyrir þér er enginn madur, ecki hinn
fullkomnasti jafnvel, réttlátur, held-
ur syndúg oss vægd og vorkun! Þú,
vor Skapari! þeckir best, af hvørsu
breisku verkefni vér erum gjordir!

minnstu

minnstu þinar grunnlausu gœdsku í Kristi Jesú, og afplána allt vort ránglœti! taktu oß undir þína guddómlegu vernd og varatekt á þeßari nóttu, og frelsa oß frá ollu illu, því vér vonum á þig, Amen!

## Føstudags Morgun-psálmur.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Enn til hjóß alvald þitt, á ný mig færdi, af dýrsins dáá og mitt, dug hreßum hærdi líf, sem ad lá, lúid á fótskør þinni; [illegible] þín, sem vidhéldt mér, vottar, eg [illegible] þér, minn Gud! í minni.

2. Því skal min þacklát sál, þér aldrei [illegible]ma; þegdan, hjarta og mál, holl bod [illegible] geyma; med nýum dug, í dag hún fast [illegible]etur, ad stunda dygd og dád, Drottinn! gef veikum nád, ad breyta' æ betur.

3. Eg er í hættum heim, hans glis mig [illegible]ar; en móti óvin þeim, adstod þín hvetur; eg megna allt, ef þinn kraptur mig [illegible]ir, sýrt ef mér sendast vann, sykra [illegible] aptur kann, þitt fylgi og fridur.



4. Ald-

4. Aldrei yfirgafst þú, þann á treysti; vera skal vißa sú, von mín hreysti; í qvøld eg mun, åst og nåd þinni, ad héldst mér á þeim stig, ad ... ast, Fadir! þig, svo frid eg finni.

## Föstudags Morgun-bæn.

Lofadur sé Gud og Fadir Drott... vors Jesú Krists, og fyrir ... vor allra nádugi Fadir! vér b... unnst nú fyri þér á þeßa dags m... ni, gladir af þinñ miskun, og f... andi af þinu hjálpræði. Vér þ... um þinñ gæðsku fyri alla þína ... urlegu velgjorninga, og prísum ... nafn fyrir oß veitta værd og ... á afliðinñi nóttu. Í þinu nafni ... jum vér daginñ, og í fullu trau... þinñar adstodar, viljum vér ... mæta dagsins þjánlngum. V... lifum í heimi, fullum freistin... siálfir erum vér breyskir, og ... hjarta táldragandi; æ Drottinñ! ... irgéfdu oß því ecki, þín veiku b...

lát þiñ ótta vakandi vera í oß, og þiñ krapt fullkomnast í vorum vanmætti, svo vér aldrei viñum þad fyri svikula syndariñar skémtun, ad yfirgéfa vegiñ þiña bodorda. O vor bleßadi Frelsari og Talsmadur, Drottiñ Jesú! bid fyrir oß þiñ himneska Fødur: ad hañ í dag og alla tíma, sem oß ætladir eru ad dvelja í heiminum, vilji nádarsamlega vard veita oß frá heimsins vondu dæmum, fýsnum og hneixlunum, svo vér framgánga mættum víslega eins og á degi, ætíd vakandi og bidjandi: ad føllum eckt í freistni. Vertu í dag í verki med oß, og lát vort hjarta réttskickad fiñast fyri þér, Amen!

## Føstudags Qvøld=psálmur.

Lagid: Gjef þinni Kristni gódann frid.

Gud Fadir! sem oß geymir vel, gædsku mátt þinn eg prísa, þitt enn ad lofa ástar þel, og miskun þinni lýsa, skal mín þacklát vanda vísa.

2. Eg, sem þíns Anda ástgiøf hlaut, er þínum trygdum minni, vesæll til þeirra vægda', er naut, vann ei áf miskun þinni, hynd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud! heiløg Vera gód og trú, Gud miñn, Gud fedra minna! frá módurlífi minn varstú, æ! mætti' eg verdur finnast, í tøln barna teljast þinna.

4. Leid mig þitt endurlífnad barn, lát andar frid mig næra. Nú sofna' eg, Fadir gædskugiarn! gef mér hylld trygga' og væra, til dóms lát mig ei dárinn færa!

5. Fadir! oss háska forda' og neyd, fel og þér mig og mína; þér treysti' og ad mér tek þinn eid, trygd hef' eg reynda. þína, aumum miskun enn mynt sýna.

## Føstudags Qvøld-bæn.

Vér þøckum þér, Drottiñ alvaldi Gud! þvt þú ert svo gódur, ad þín miskunsemi varir ad eilífu, fyrir hana erum vér eñ þá í dag med mørgum gædum ríkuglega blessadir, og frá allri neyd, fári og slisum vølduglega verndadir. Vér tilbid-

jum

jum fyrir þínu áugliti, og offrum þér audmjúku hjartans þacklæti fyrir allañ ríkdóm þíñar gædsku, vægdar og lánglundar-géds, er þú hefir audsýnt oß í dag. Medtak, o Fadir! í nád, þeßa ófullkomnu, en þó einlægu qvöldfórn vora, þú heyrir gjarnan audmjúkar bænir, og fyrirlítur ecki vort veika barna-qvak. Fadir! í þína voldugu umsjón felum vér nú aptur líf og sálu, hús og eignir, og allt þad þú hefir oß géfid. Drottiñ! vér erum þín handaverk, og í Jesú Kristi fridkeypt útvalin börn, lát oß ecki glataſt, lát engañ rífa oß af þiñi hendi. Umkríngi oß þín guddóms nálægd, ſvo ad hvort vér ſofum eda vökum, lifum eda deyjum, ſéum vér þó þínir. Géf oß, o Jesú! vært ad ſofa í þínum fridi, ad vér á morgun gladir uppvaknamættum, til ad vídfrægja þína Dýrd, þadan í frá og ad eilífu, Amen!

## Laugardags Morgun-psálmur.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Dagur austur-lopt uppljómar, ljóssins Herra! dýrd sé þér, mikla vernd og milda dóma, miskun þín oss jafnan tjer; morgunrodans blídri brún, blessud enn nú gledur hún. Af sæng upprísum sælir og gladir, ad syngja lof þitt, hjartans Fadir!

2. Skapari þared lyds og landa, lífs og heilsu veitir hnoss, láti' hann sannleik, ljós og anda, leida', skína og styrkja oss, ad þjóna sér í þeirri stétt, þar hann hefir oss í sett; sérhvert böl, sem mér kann mæta, miskun yndist hans ad bæta.

3. Gud! hvad sem í öllum áttum, oss til heilla skapadir þú, eptir sínum edlis-háttum, ebli vora farsæld nú; gef oss þenna gódann dag, gódi Fadir! sjá vorn hag, oss þin blessud gædska geymi, gædin full í betra heimi.

## Laugardags Morgun-bæn.

Allt hvad andardrátt hefir, lofi Drottinn eilíflega! já, þacka honum og prísa hann, mín sál! á þessa

dags

dags morgni, sem verid hefir sól og skjøldur yfir þér á umlidinni nóttu! Drottinn! þú lætur ecki af ad gjøra vel vid oss, daglega er þín miskun ný, hvørr daguriñ segir þad ødrum, og hvør nóttin kunngjørir þad añari; því skyldum vér þá þegja? vér, sem frá módurlífi, allt fram á þessa morgunstund, reynt høfum þig trúfastañ verndara, Fødur og forsvar? æ! ad þessi uppreñandi dagur mætti nú vekja vorn anda til verdugrar þackklætis lofgjørdar þínu nafni, fyrir allar fødurlegar velgjørdir, sem þú veitt hefir oss í nótt og alla umlidna viku, þó vér høfum þrálega syndgad ígégn þér, og vanrækt skyldu vora. Ebl med oss lyst og krapta til ad endurkaupa trúlega tídina í dag, ad um bæta þad, sem á vikuñi forsómad høfum, og ad elska þig því heitara, sem þú fyrirgéfur oss fleiri afbrot. Géf oss á þessum seinasta vikunnar morgni, svo ræktiliga ad miñast vors

upp-

uppríſu morguns og endurlífgunar=dags af gröfinni, ad vér aflifa mættum þenna dag og hvörn dag hédanaf, eins og hann vera ætti vor ſídaſti, og vér ad komanda morgni búaſt ættum vid ad uppvakna til óforgengilegs lífs og heyra vorn dóm Amen!

## Laugardags Qvöld pſálmur.

Lagid: Kom Andi heilagi.

Til hafs ſól hradar ſér, hallar út degi, eitt ſkeidrúm endaſt hér, á lífsins vegi.
2. O Gud! hvört annad nú, ennþá vor ſldur, auglýſir engum þú, ódar enn lídur.
3. Nóg er ad vitum vel: vort líf ad endi, og ad þad eins og hel, er þér i hendi.
4. Ad um oſs annt ſé þér, ad ſért vor Fader, hughrauſtir vitum vér, viſſa nóg þad er.
5. Þó dagsins ſkundum ſkeid, ſkjótt fram ad nóttu, brádt þenar lídr leid, ad lýſi i óttu.
6. Svo lífid braut er breid, til bana lífsins, og daudinn eins er leid, aptur til lífsins.
7. Svo lifa ſérhvörr á, ſem ſálaſt egi, en andaſt eins og ſá, ſem aldrei deyi.
8. Ì þína umſjón nú, Aſtríki Fadir! ſelium ſ'f, bygd og bú, blundum ſvo gladir.

## Laugardags Qvøld-bæn.

Ríknsamur er Drottiñ, þolinmóður og harla góðgjarn, sem í dag og alla umliðna viku, hefir oß og allt vort svo dásamlega verndað og bleßað, að eckert brestur á allt það góða, sem hañ hefir lofað oß, og vér verið höfum hæfilegir til að þyggja. Lofað sé hans dýrðarfulla nafn að eilífu! sem eñ þá auðsýnt hefir á oß stærð sinnar miskunar, aukið vorn náðarfrest um eina viku, og á henni yfirausið oß margføldum velgjerðum í voku og svefni, með bjørg og bleßun, hlífð og varðveitslu, heilsu og hamingju, fyrirgéfið oß margar syndir, veitt oß margføld gjæði, og marga upporfun til egin farsældar eblingar, til að verka vora sáluhjálp með ugga og ótta, með dygð og guðhræðslu; æ hvað erum vér, Drottiñ! og hvað eru vor verk þeß verð, að þú svo mildilega hefir breytt við oß, og føðurlega leidt oß híngað til, já, vilt

nú frammvegis gjöra oss til góda? hvad ófullkomin er þó ecki vor dygd? hvad alvörulítil vor betran? hvad köld vor elska og vort þacklæti? hvad hvikul vor hlýdni? hvad ávaxtarlítil vor gudrækni? æ! allir vér brjótum margfaldlega! sinn þó samt ecki frá oss þinni nád, yfirgéfdu oss ecki, því þá erum vér glatadir. Fyrirgéf oss allar vorar misgjordir, allar dagsins syndir, og vikunnar vangæslu; miskunna oss og heyr vora bæn, sakir þinnar grunnlausu gædsku og óbrygdanlegu nádar fyrirheita í Jesú Kristi vorum Lausnara. Í hans nafni leggjum vér oss óhultir til hvíldar; í hans nafni treystum vér því, ad þó þessi nótt verda ætti vor sídasta, munu daudinn sjálfur snúast oss fyrir hans dauda, í blessadann værdarblund, og æskilega lausn og frelsun frá allri eymd og mædu; þá erum vér eilíflega sælir, Amen!

II.

# Daglegar Bæn

## Bæn á Sunnudögum.

Hilfi Gud! vor Fadir á H
um! vér lofum þig, og þ
um þér af hjarta fyrir allt
sem þessi dagur, og allir aflif
hafa oß fært frá þinni mildu he
meira er þad enn þad metid v
og fleira enn vér fáum þad t
Þo er sú þín miskunin mest: a
fyri Jesúm Krist vorn Lausn
gefid hefir oß, brotlegum mannsk
um, djørfung til ad kalla þig v
Fødur! O! hvílíkann kjærleik
hefir oß, audsýnt, ad vér me
kallast þín børn. Já! sem F
hefir þú látid til vor tala í
ordi í dag, látid vara oß vid vo

...vekja til ad vera gódir og stunda
..., svo ver gœtum vordid góds
...tandi hér og sídar. Æ! lát nú
...t ord, heilagi Fadir! helgast á
..., og helga oss siálfur í sannleik
...m, í dygdinni og ollu kristileg
..., ad vér lifad, gétum þér
... og dýrdar, rosamir vid
...raustu sansœríngu: ad þegar v
...ostum kapps um, ad vera eins
...ú hilt vér sénum, þín gód og
...velp born; munir þú, sem allyn
...ur Skapari og bestiFadir, allt
til vor gjora, og ad lyktum in
taka oss, bornin þín, í Himnarík
...u, til ád lifa þar og losa
um aldir og ad eilífu, Amen!

### Bæn á Mánudogum.

Vér hefjum vorn anda í hæd
ar til þín, eilífi alheims
...ndur og Stjórnari! og í Jesú na
bidjum: æ! lát þitt ríki, þína d
og dýrkun, sannleika og dygd,
... ...

ast og útbreidast vor á medal, kvorum hjortum og húsum. Keñ oss þín réttindi: ad vér stundum ad gjøra øll vor verk med vondudu húgarfari, med dygd og samvitskusemi, eins og þína þjónustu fyrir þínu augliti. Þiñ gódi Andi, ó Jesú! fridar, kjærleiks og eindrægnis andi, búi í vorum hjortum, stýri vorri umgengni, og farsæli vort húss félag, svo vér gladir og rósamir lifa mættum undir þinni stjórnun, vor Gud og vor Lausnari! gladir ydja þad vér gjøra eigum, og vor skylda býdur, gladir lída, gladir bída, uns vér álítumst hæfir ad medtakast í þitt eilífa dýrdar ríki, Drottinn vor Gud! lofadur um aldir, Amen!

## Bæn á Þridjudøgum.

Ometanlega mikid hefir þú, gódi Gud! lagt til vor, þína manskepna, mikid í skøpuniñi, mikid í

forsorgun, vernd og vidhaldi, en þó einna mest í því, þú géfid hefir oss vit á ad vidurkénna þetta, ad vidurkéña þig, eilífa ædsta Vera! vorn Skapara, lífsins hofund og vidhaldara; allt saman: ad þú vilt oss vel, ætíd hid besta; æ! verdi því á oss þinn gódur og nádugur vilji! kénn oss eptir honum ad breyta í þaunkum, ordum og athofnum, med varhygd og vakandi samvitsku, þegar vel gengur, en þolgædi og stodugri von, þegar móti blæs; þá verdur oss sem þú vilt; vér verdum þá, fyri reynsluna, fullkomnari og hæfilegir til ædri sælu-nota, í því komanda og betra lífi, sem vor Lausnari Jesús hefir fyrir oss í ljós leidt, afrekad og fullvissad oss ad lidnu þessu lífi, Amen!

## Bæn á Midvikudogum.

Vér andvorpum til þinar gædsku, þú orláti Gjafarinn allra góð-

ra hluta, og í hópi þinna tallausu lifandi sképna, bidjum: Blessa oss Gud vor Gud! og géf oss þad vér dag hvorn vidþurfum til lífsins vidurhalds, til nautnar, skiols og svolunar líkamanum, og til ánægju vorum sálum. Blessa vort hús og handabla, vora ydn og ervidi, svo lifad gétum nytsamir í voru standi, oss og medbrædrum þarfir; gétum med glodu gédi og gódri samvitsku neytt egin brauds í sveita vors andlitis; gétum sýnt vorn gódvilja og vora trú ávaxtarsamt vid þurfandi, af því, sem þú géfur oss. Já, blessa oss þad þú býtir oss! géf ad vér þyggjum þad, handtérum og notum sem þínar gáfur, med greind og gudrækni, ánægju og þackargjord, þá verdur þad oss nægilegt, notagott og blessad fyrir líkama vorn og sálu, í Jesú nafni, Amen!

## Bæn á Fimtudögum.

Med blíúgum og ydrandi anda ákollum vér þig, o Gud! þú brotlegra manna eilífi miskunari! vidurkénnum þér vorar margföldu fyrirdíngar, med hvörjum vér svo þrátt höfum gjört oss ómaklega þínar nádar, og í Jesú nafni bidjum fyrirgéfníngar á þeim. Æ! líknsami Fadir! þú þeckir vort stadlitla mannedli; þó vér optast höfum viljann, opt líka vidleitni til ens góda, brestur oss tídum árædi, tídum líka stödugl ynditil ad framqvæma þad. Vorkénn vanmætti vorum; samverka vorum vilja, og ávaxta vora vidleitni, ad láta af íllu, en læra gott ad gjöra. Þitt dæmi, vor ljúfi Lausnari! hvetji oss, og þinn andi styrki oss til ad fyrirgéfa og unna þeim góds, er vid oss kunna afgjöra, svo vér komist gétum sem næst þínum fótsporum, líkst þér í mannelsku, og eptir þínu ordi og

fyrirheiti verid vißir um fyrirgéfníngu vorra synda, Amen!

## Bæn á Föstudögum.

Sanni, trúfasti Gud! þú fullkomnasti! þú besti! vor hjartans unan sé sem tídast um þig ad þenkja, þín verk ad skoda, þiñ vilja ad stunda, og þína vegu ad rekja, svo vér ecki leidumst í freistni; ecki látum oß tæla af villtra fýsna og vondra dæma gyllíngum; ecki efast um, ad öll þín stjórnan er vís og góð, allir þínir vegir einber miskun og trúfesti. Leid oß eptir þínu rádi og í þínum sañleika, ad vér lærum rétt ad meta stundleg gædi, svo ad brúka heimiñ, ad vér ecki misbrúkum hann, ecki spillum þínum gódu gáfum, né meidum sjálfa oß. Styd oß og styrk med þínum krapti gégn freistínganna ofurefli, ad vér ecki follum, heldur fáum stadist, vardveitt trúna

og góda samvitsku til æfiloka, þá er oss viss sigurkransinn eptir þínum fyrirheitum, Amen!

## Bæn á Laugardøgum.

Vor hjálp stendur í þínum høndum, þú almáttugi himins og jardar Skapari! æ! þañ hugsvalandi þánka! því vongladari vogum vér ad b dja: mikla nú, gódi Fadir! á oss þiñ mátt og þína miskun, og snú frá oss øllu því, sem þú eiñ þeckir ad géti ordid oss til skada á sálu eda líkama, æru eda velferd. Géf oss vitsmuni ad framgánga forsjálega í heimi þessum; engum géfa hneixlun, engann skada í nockrum hlut, en vaka alljafnt yfir samvitsku vorri; hún fylgir oss lengst; hún gétur bædi gladt og skadad oss mest. O! had skyldi oss aldrei gleymast, hvar sem vér erum staddir og hvad sem vér gjørum; þá gétum vér lifad øruggir í fastri trú og voñ um,

ad þú, vor trúlyndi Skapari! munir leida oß klaklaust gëgnum lífsins hættur og torfærur, og loks frelsa oß frá øllu illu, og hjálpa oß til þíns himneska ríkis; því þú einn megnar øllu ad eilífu, Amen!



III.

# Hátida Bænir.

## Jóla-Bæn.

Lof og dýrd sé Gudi í hærstum hædum! sem eptir sínu óransakanlega vísdóms- og miskunarrádi, hefir frá eilífd fyrirhugad oß, syndugum mønnum, hjálpar-medal í sínum eingétnum elskulega Syni, Jesú Kristi, sem í uppfyllíngu tímans er af Fødursins skauti útgenginn, fæddur af qvinnu, og lögmálinu und-

undirvorpinn. Lof og heidur sé þér, Guds eingétni Sonur! þú Fodursins dýrdar-ljómi, og sanna ímynd hans guddóms veru, sem oss ert í heiminn sendur og géfinn til réttlætis, vísdóms, helgunar og eilífrar sáluhjálpar. Velkominn vertú oss, þinni kristni! sem af þínum guddómlegu lærdómum helgud og upplýst er, til ad þeckja á hvorn hún trúir, og þá sælu arfleyfd, sem oss ollum er, fyrir þína holdtekju og híngadburd, innsiglud í von eptirkomandi gæda. Velkominn vertú oss, o Jesú! vor blódteingdi bródir! sem med þinni blessadri fædíngu, blessad og helgad hefir vora fædíngu. Þú gjordist veikt og hjálparþurfandi barn, eins og vér; þú ert oss, ad ollum syndlausum breyskleika, líkur ordinn, þú vilt því hera vorkunsemi med oss, þínum brædrum, og styrkja med þínum krapti í ollum vorum breyskleika.

Bless-

Blessud og hátídleg veri oss þín fædíng! veri hún svo andvyrdileg, sem hún annars var, fyrir heiminum; hún er oss þó, sem trúum á þitt nafn, dýrdlegt fridar=merki á milli Guds og maña, já, ríkugleg bleßunar-lind allra gæda, tímanlegra og eilífra. Vér nálægjum oss í þaunkunum þínum Fædíngar-stalli, og tilbidjum þig, heimsins Lærimeistara, géf oss ad fylgja þínum sannleika! vér ákøllum þig, vorn Sáluhjálpara, géf oss ad standa stødugum í þiñi vidurkénníngu og Guds ótta, allt til æfiloka! vér prísum þig, vorn Dómara, æ! géf oss svo hér á jørdu ad taka þiñi fædíngu og fædíngar notum, ad vér á sídan fyrir þínum dómi, álítast mættum verdugir ad iñleidast í þína dýrd, og þar undirtaka og samsýngja med øllum himnesku hyrdsveitum, Englum og útvøldum, þiñ lofgjørdar prís ad eilífu, Hallelujah!

Nýs

# Nýárs-Bæn.

Eilífi aldanna Faðir! hjá þér eru þúsund ár, sem einn dagur, og einn dagur, sem þúsund ár; þinn aldur er æ hinn sami, en oss flytur hverr dagurinn, vikan, árið, öldin, nær tímans og eilífðarinnar alda-mótum, nær enda vors aldurs og dóminum. Oðfluga straumur tímans hefir, hraðar enn vér alvarlega fengum aðgáð, borið oss enn þá áfram um eitt ár, nær þeßum oss markverðu takmörkum. O vor Guð! óttaslegnir rennum vér augum til umliðna ársins og þeßara takmarka; árið útrann, enn vér blygðumst að líta til þeßa af oss misbrúkaða tíma. Vér meðtókum af þinni Föðurhendi allt það gott til sálar og lífs, sem þín milda forsjón sá oss fyrir bestu; fleirstir nutu heilsu og hagsælda, ánægju og nægrar atvinnu; fleirstir ríkuglegrar bleßun-

ar af lopti, jørdu og vøtnum, og bleßunar í størfum og útréttíngum. Þitt ord vakti oß af andvaraleysinu, lýsti oß á dygdanna veg, og hvatti ad skunda hann, en vér daufheyrdumst vid þinni raustu, og adhylltumst øllu framar heimsins flárádu ginníngar, medtókum þitt ørlæti og fødurlegu bleßun þackarlítid, og virdtum allt þetta sem smámuni, þínar bendíngar med kaldsinni og dofinleika, þitt lánglundar-géd og miskun med uggleysi, ef ecki med forherdíngu. Æ vor Gud! viljir þú í réttlætis dóm vid oß gánga, Drottinn! hvørr fær þá stadist? viljir þú med árinu enda vora daga og þína nád vid oß, med hvílíkri skélfíngu mættum vér þá ecki horfa fram ad því óttalega, sem á eptir færi? en — vér bidjum, líknsamt Fadir! og vitum þó ecki hvørs bidja ber — vér fulltreystum þinni miskun, ad þú sjáir vægd vorum, vondsku háttum stór-

stórum; ad þú med velþócknun med-
taka vilìir þá veiku lofgjørd, sem vér
nú vid þeßi áraskipti, af inñsta hjart-
ans grunni framberum samhuga
fyrir þig. Æ! eilíft lof og ódaud-
legar þackir sén þér, vor Fadir! fyri
alla þína trúfesti og miskun vid oß,
alla þína dásomu handleidslu á oß
um aflidid ár. Vér bidjum og full-
treystum þiñi forsjón, sem allt híng-
ad til hefir oß svo fødurlega añast, ad
þú á í høndfaranda ári, látir þitt
sañleiks ord vera lampa vorra fóta
og ljós á vorum vegum, sendir þañ
saña vísdóm í vor hjørtu, þañ vís-
dóm, ad óttast og elska þig, fram yfir
alla hluti. Vér fulltreystum því,
ad þú, sem miskunar þig yfir øll þín
handaverk, og stjórnar þeim øllum
med svo mikilli umhyggju, ad enginñ
titlíngur fellur á jørdu án þíns vil-
ja, ad þú, sem talid hefir øll vor høf-
udhár, og veitst á hverju vér høfum
þørf, og af hverju not, sem oß er
sjálf-

sjálfum hulid, munir, fyri Jesú sak-
ir, alla hluti vid oss betur gjora, enn
vér skyňjum um ad bidja, munir því
blessa, vernda og vardveita oss alla
á sálu og lífi á komanda ári; blessa
og styrkja vorn Konúng, og hans
háa hús; blessa Kristniñar Hofud-
stéttir hjá oss: Hússtjorn, Vald-
stjórn, Kéñidóm; blessa eiñ og sér-
hvorn medal þinna mannsképna;
blessa vort naudþreyngda Fodur-
land, med hagaulegri og frjosamri
vedurátt, jardarinnar, hafsins og
vatnaña ágóda, landsins og lífs-
ins ávoxtu; blessa hvors og eins
storf, ydn og sveita í ærlegri sýslun,
vor ferdalog og útréttíngar á sjo og
landi; vernda og blómga réttsýna
kauphondlun og vidskipti maña á
milli; bjóda hafinu, ad láta oss sína
audlegd og blessun í tje; bjóda, ad
himiniñ ecki til lengdar né til hall-
æris verdi oss sem járn, eda jordin
sem kopar; bjóda styrjold og drep-

sóttum ad gánga framhjá vorum veikliðaða og fámenna Hólma; bjóda hryad og þjáníngu þeirra, er stynja undir sjúkdóms og mótlætíngaña þúnga, á þér þægilegri, og vorum líðandi bræðrum hentugri tíð, ad snúast í gledi í kaun fögnud; já, unnir blessa lærdóms-mentir vor á medal, og alla framfarar vidleitni í vísdómi og dygd, og loksins blessa oss alla med luckusælli rósemd og fridi; iñbyrdis fridi og ástsemi í voru landi; fridi á vorum heimilum, ad engin úlfbúd né tvídrægni, megi sundurslíta vor sameginleg kjærleiks- og samheldisbönd; fridi í vorum hjörtum; samvitskunar dýrmæta fridi; þeim fridi vid þig, sem allur heimuriñ og hans glaumur ecki fær géfid. Keñ oss svo ad telja öll vor æfi-ár, mánudi og daga, ad vér vísir og forsjálir verdum, svo ad brúka sérhvört ár og þess daga, á medan ný ár og nýir dagar

géfast

géfast oß, ad vér óskélsdir vogum ad mæta fyrir eilífdarinnar Dómstóli, ad lidnum æfiñar árum, med reikníng fyrir brúkun vorra ára og daga hér í heimi. Í Jesú dýrmæta nafni bidjum og vonum vér alls þessa, miskunsami Gud og Fadir! hans vegna muntú því fylla alla vora naudþurft, eptir þínum dýrdar ríkdómi, Amen!

## Páska-Bæn.

Ódaudleggr packir, dýrd og heidur sé þér, alvaldi Gud! mikill ad rádi, og mektugur í athøfnum, þú, sem med þínum voldnga krapti útleiddir af daudanum hiñ mikla hyrdir saudanna, Drottinn Jesúm Krist! vér lofum og tilbidjum þitt háleita nafn, og prísum þína heilsusamlegu nád, sem nú er opinber ordin øllum heimi, í vors Endurlausnara dýrdlegu upprisu. Nú hefir þú til fulls auglýst hañ ad vera

þiñ eingétiñ Son, heimsins Lausn-
ara, ljós og lífgjafara; nú er hans
Lærdómur og Evangelíum iñsigl-
adur og stadfestur guddómlegur sín-
leiki; nú eru öll þín fyrirheit í Jesú
Kristi uppfylld og ad eilífu soñud
ad vera já og Amen! já, nú er lífid og
ódaudlegleikiñ í ljós leidd. Daudi!
hvar er nú þiñ broddur og banvæna
sigd? Jesús lifir! svo þó vér deyum
munum vér þó lifa, lifa med þér, o
Jesú! lifa eilíflega sælir. Daudi,
gröf og forrotnan! hvar er nú þiñ
sigur? Jesús lifir! og hefir í sínum
fridþægjandi Dauda og sigursælu
upprisu afmád alla þína skélfingu,
svo þú ert nú ordiñ vært hvíldar og
geymslu herbergi til dýrdlegrar end-
urlífgunar öllum Guds börnum.
Nú kuñum vér, midt í daudanum,
sigrihrósandi ad syngja þér lof, gódi
Gud! sem oss hefir siguriñ gefid fyr-
ir Drottiñ vorn Jesúm Krist, já,
vér erum þess fullvissir, ad þegar
vér

vér einúngis kappkostum ad berjast undir þínum merkjum, vor upprisni Lausnari! lifum og líðum eptir þínu dæmi, svo munum vér að lyktum, sem þú, í þínum krapti sá sigrinum haldið. Sé oss þín hátídlega upprisu minníng, o Jesú! í dag, kröptug upphvatníng til endurnýúngar lífdaganna framvegis, svo þegar vér til fulls afklæðast fáum forgengilegleikanum, að vér þá endurnýast mættum til vegsamlegs lífs og sælufullrar skodunar þinna dýrdlegu dásemdar verka, vor Gud! lofadur og blessadur nú hédan í frá og að eilífu, Amen!

## Uppstigníngardags-Bæn.

Háleitlega heidradur og vegsamadur sértú af öllum túngum engla og manna, Drottinn Jesú! sem í þinni dýrdlegu uppstigníngu upphafinn ert yfir allt hvað hátt og háleitt nefnast má á himni og jördu.

Ur duptinu uppheſjum vér vorn huga og ſálu í hædirnar til þín, og í heiløgum hugleidíngum leitum þeß, ſem þar uppi er, hvar þú ert, vor brodir Jeſú! Hvørr vill nú framar áklaga oß, þín útvalin børn? þú Gud! ert ſjálfur, ſem réttlætir, hvørr megnar þá ad fordæma? þú Kriſti! ert ſá, ſem lidid hefir og dáinn ert, já, miklu framar þú, ſem upp aptur ert vakiñ, þú, ſem ſetſtur ert til Kraptarins hægri handar og bidur fyrir oß. O! ſkyldum vér nú, vora ſtuttu hérveru tíd, lengur leita vorri ódaudlegu ſálu ánægju í ſvikulli ſyndariñar ſkémtun, í gjálífi og heimsins fánýta hégóma, vér, ſem egum ſælufullañ ódaudlegleika í vændum á himnum med þér, vor upphafdi Lauſnari! Skyldum vér meta fallvølt ſtundar-gædi fyrir vort ædſta góda, og nidurſøckva oß í munadarlífi, en ecki miklu framar hafa vora umgengni á himnum,

hvar

hvar vor borgarréttur er, og hvadan vér væntum Frelsara vors og Drottins Jesú Krists? Þángad hefir þú, o Jesú! vísad oß veginn; drag þú vor hjørtu, laungun og vilja eptir þér í hædirnar, svo vér ætíd gladir af voniñi høfum vorn huga festañ á því himneska, óforgengilega eilífa, og leitum oß unadsemdar med því, ad gjøra oß æ hæfilegri og hæfilegri til iñgaungu í þá sælufullu vistarveru, sem þú, vor Frelsari! ert undan oß gengiñ, ad tilbúa oß med sjálfum þér í himnaríki eilíflega, Amen!

## Hvítasunnu-Bæn.

O þú sanheilagi guddóms Andi! Andi ráds og skilníngs! Andi vidurkeñíngariñar og ótta Drottins! þú vor leidtogi og Lærimeistari til eilífs lífs! þig lofum og dýrkum, þig ákøllum og tilbidjum vér á þeßari dýrdlegu Hátíd og Stiptun-

unar degi Jesú Krísts Kirkju á jörduñi: uppfyll nú vor hjörtu og vorn helgidóm med þinni guddómlegu sérlegri nádar nálægd, svo vor Gudsþjónusta mætti ské med réttum anda, og verda þér, vor Gud! velþócknanlegt offur í dag. Lát þiñ allt megnanda krapt, sem voldugléga útbryndjadi og styrkti Jesú Postula til einardlegrar sañleiksins vidurkénníngar, lát hañ einnig verkandi vera í vorum hjörtum, ad vér fúsir og viljugir hlýdnumst og fylgjum þeim vidurkéñda sañleika. Upplýs vorn skilníng, géf oß vísdom, greind og djörfúng til ad þeckja vondt frá gódu, dygd frá löstum; lyst og krapta til ad fylgja sañleikanum og elska hañ; hughreysti og alvörugéfni til ad yfirviña sjálfa oß, allar freistíngar, hræsni og breckvísi, og allt þad þér er mótstædilegt. Opna vorn muñ, hug og hjarta til ad tala og þenkja um og vidfrægja þín-

þínar dásemdir. Helga vorn vilja til fúsrar framqvæmdar alls þeß góða, er þú gefur oß krapta og medöl og tækifæri til, svo vér med ordi og verki, í öllum hlutum, ordid gætum verkfæri í þinni hendi, til ad efla Guds dýrd, verka vora sáluhjálp, og styrkja til ad rótfesta kristindómsins kjærleiks anda á medal mañaña. Æ! helga þú oß í sañleikanum, vidhald oß í trúñi, hreinsa vorar samvitskur frá öllum daudlegum verkum; gjör oß kröptuga, heita, stoduga í bæniñi, í lofgjördiñi og þacklætinu til Guds; ávaxtarsama í Gudhrædsluñi, þolgóda í þrautunum og vonglada í daudanum, ad vér þá hafa mættum þann vitnisburd grundvalladann í vorum sálum um þad, vér séum Guds born og erfingjar eilífs lífs. Bænheyr oß, gódi heilagi Andi! þér sé lof og dýrd um allar aldir, Amen!

## Bæn eptir Predikun á Sunnu- og Helgi-døgum.

Lof og pris og þackargjørd sé þér, mildiríki Gud og Fadir! ad þú létst oß, sem ráfudum í vanþeckingar- og villu-myrkrum, upprenna fagurt ljós þiña sañleiks orda, kéñdir oß ad þeckja veginñ til eilífrar farsældar, nefnilega: þig einann ad vera sañañ Gud, og Jesum Krist af þér útsendañ, til upplýsingar, betrunar og frelsis þínum mañasképnum; kénndir oß ad þeckja þitt vísdóms ráð oß til leidréttingar, þínar ályktanir um oß, vorar skyldur vid þig, oß siálfa og vora medbrædur; kéñdir ad þeckja vora áqvørdun til œvarandi gledi og ánægju, ef vér ad eins hlýdnumst þínum fødurlega vilja, og kappkostum í øllu voru líferni ad láta í ljósi ávoxtu verduga þiñi þeckingu og dýrkun, og trúlega fylgjum vors Meistara Jesú lær-

dom

dómi og dygdadæmum. O! ad vér jafnan létum ofs hugfast, ad laga allt vort líf eptir þinu ordi og vilja, daglega ad taka framførum í vísdómi og dygd, í stuttu máli: verda þér í fullkomlegleika æ líkari, þóckanlegri og verdugri til mañа tignarlega nafns og fyrirheitnu fullsælu med sjálfum þér. O! ad síst þurfi rætast á ofs: ad Jesú læ. dóms ljós hafi ofs skinid, en vér þó framar elskad vanþeckingar og andvaraleysisins myrkur eñ þetta skjæra ljós, hvors vegna Jesú af ofs vanvyrdtu ord á sídan skulu dæma ofs á efsta degi, heldur ad þeſsi lífsins ord mættu verda þiñ kraptur til vorrar sáluhjálpar. O Gud! þú þeckir þad marga, er ofs kañ ad tæla og afvega leida, vorn vanmátt og vorn breyskleika, þín nád vorkéñi vorum vanmætti, og þiñ kraptur sé í vorum breyskleika máttugur, Amen!

IV.



*IV.*

# Mißiraſkipta Bænir.

## Bæn í útgaungu Sumars.

Hgrípanlega eilífa Vera! vér tilbidjum þig vorn Gud, vidurkénnum þig vorn Skapara, þøckum þér vorum Velgjørara, og ákøllum þig vorn Fødur! Þú hef-ir ecki látid þig vera án vitnisburd-ar þetta afliídandi Sumar, heldur enn endrarnær. Þú hefir opinber-ad þig fyrir oß hiñ ørláta gjafar-añ allra gæda, þared þú veittir oß ſvo margt og mikid gott, gafſt oß døgg af himni og frjóſſamar árs-tídir. Þín blída ſól hefir ſkinid yfir oß, opt vanþackláta, án mañgrein-ar álits; allt bendir oß til þín, og lætur þreifa á þeim eilífa ſañleika:

Drott-

Drottinn er øllum gódur, og hann miskunar sig yfir øll sín verk, jørdin er full af hans gódgyrni. Já, miskuna þig yfir oss, og sýn oss þína gódgyrni framvegis, mildi Fadir! Blessa oss þínar gáfur, þær þín ørlætis hønd rétt hefir oss gégnum náttúruna; blessa vorn Sumarsveita, øll vor heimilis-faung úti og iñi, sem þú géfid hefir oss greind og krapta í þínum ótta ad abla oss, svo vér stadist fáum Vetrarins óblídur. Þegar sólarinnar fagra ljós fer, vid Vetrarins komu, ad fjærlægjast vorn kalda bústad, æ! þá vertú sjálfur vór hressandi vonar-sól og hlífdar skjøldur gégn øllum sárum hugar-sorgum, øllum þecktum og óþecktum háskasemdum; fyrirgéf oss tímans, lífsins og þinna gáfna misbrúkun; fyri Jesú skuld heyr þú vora bæn, ált vora þørf og uppfyll hana, eptir þínum dýrdar ríkdómi, Amen!

## Bæn í inngaungu Vetrar.

Vísdómsfulli aldaña Stjórnari, vor Gud og mildirîki Fadir! þú hefir skapad Sumar og Vetur, blídt og stirdt, hvorutveggju þessu megnar þú einn ad stjórna þínum maññsképnum til besta; þiñ vísdómur er óransakanlegur, og þiñ vilji óumbreytanleg gædska, þad er vor eiñka von og huggan þinna veiku, allsþurfandi sképna, sem med tímaña straum og tilfellaña biltíngum framleidum vora óvissu daga-tolu, sem æfintýri. Æ! vér þeckjum þad og þöckum þína gædsku, gódi Fadir! sem verndad hefir oss svo dásamlega, og vardveitt allt til þessa tíma, ad vér ecki hofum, svo ad segja, steytt fót vorn vid steini; þú hefir ecki einúngis hlíft oss vid ollum slisum afliðid Sumar, heldur þar á ofan ríkuglega blessad oss af loptinu, jörduñi og sjónum, farsælt vora útvegu,

og

og frambodid oß fleiri bleßunargœdi til ánœgju og þarfa, eñ vér hofum haft vit á ad byggja og fœra oß í nyt; já, alla vora naudþurft hefir þú uppfyllt, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi, þad vidurkénnir nú vor sála med sonarlegu hjartans þacklœti, er vér þenkjum út í þína óumbreyttu guddóms vernd og vidhondlun vid oß aflidid Sumar. Æ! vér hofum verid ómaklegir þiñar nádar, en þú hefir oß í tje látid miklar gœdsku gnógtir, og þó vér hofum ecki œtíd fengid vorar ómettanlegu, já, opt skadlegu óskir uppfylltar, megum vér þó prísa þína vísdómsfullu gódgyrni, sem veitir oß þad eina, er þú sjer oß fyrir bestu, og því bljúgir og ydrandi vidurkéña: miñi erum vér allri þeirri miskunsemi og trúfesti, er þú hefir audsýnt oß, já, of óverdugir erum vér til ad þora ad vœnta þeß sama af þér framvegis. En fyrir Jesú

vors bródurs ſakir, ſakir þiña egin órjúfanlegu Guddóms fyrirheita, vertú oß framvegis nádugur á komanda Vetri. Tak oß ad þér, ſem Fadir, vér viljum vera þín børn, og ſem børn felum vér oß med lífi og ſálu og øllum efnum á þitt miſkunar vald; vertú vor hlífd í háſkanum, vort hæli í naudunum, vor leidtogi á øllum vorum óviſsu ſtigum, já, vertú vor allra Fadir og Gud í Jeſu nafni, í hans nafni bidjum vér, í hans nafni bænheyr oß, Amen!

## Bæn í útgaungu Vetrar.

Med gladværum anda og lofſýngjandi túngu prīſum vér þig, vor Fadir og Herra himins og jardar! vor hjálp ſtendur í þínum høndum; þín miſkun og trúfeſti er ſtadfeſt yfir oß, þínum ſkynjandi ſképnum, frá ondverdu heims, frá kyni til kyns, í ſtrídu ſem blídu. Vetrarins hørkur og hardvidri gjørir þú

ad

ad þínum þénurum, hagl og eldíngar ad þínum sendibodum, er kénna oss varúd og viturlega tímans brúkun; þú mentar oss þañig, góði Gud! til ædri fullkomnunar sídarmeir; þessvegna prísar vor sála þig, og þacklát vidurkéñir: allt er af þér med vísdómi nidurskipad, allt þitt ráð, øll þín stjórnan og vegir eilíf speki og gædska. Þú ert verndari þins volada, sem rádvandur treystir þér; vort orugga athvarf hefir þú verid á tíma neydar og mañrauna þeña Vetur, eins og allar afliðnar æfistundir, því skulum vér af hjarta á þig vona, og gledja oss vid þá vissu: ad þú svo fúslega hjálpar. Þú géfur Sumar eptir Vetur, skin eptir skúr; þú tiptar ad soñu, en ofurgéfur þó ecki daudanum. Lofadur sé Gud! sem leidt hefir oss lífs og heila fram ad þeßa Vetrar enda, forsorgad oss og frelsad frá morgum þecktum, en þó víst ótal fleiri óþecktum

háſkaſemdum. Fagna ſkulum vér þvi og gladir ſegja: lofad ſé nafnid Drottins ad eilífu! Amen!

## Bæn í inngaungu Sumars.

Blegſanad ſé þitt dýrdarfulla nafn ad eilífu, alvoldugi tímanña Stjórnari! þitt ord, Drottiñ! er Sannleikurinn, og þín fyrirheit bregdaſt aldrei; þú býdur, ſvo ſkédur þad, þú ſkipar, og þad ſtendur ſvo, þín ſtjórnan er dáſamlig, og þín nidurradan í náttúruñi raſkaſt ecki um aldur og æfi; þú hefir ſkapad Sumar og Vetur, ljós og myrkur, froſt og hita, blídt og ſtrídt, allt hefir þú þad tilſett til þarfa oß þínum ſképnum; ſú vísdóms ſkipan ſtendur eñþá ſtodug: Veturiñ er aflidiñ, en Sumarid tekur vid; lof ſé þér fyrir lidnar lífsſtundir! já, eilífar þackir ſéu þér fyrir hlífd og vidhald, bjorg og bleßun; og allt gott oß veitt og géfid til lífs og ſálar á

af=

afliðnum Vetri! því framar, sem vér høfum verið komnir uppá þína náðugu varatekt, því áþreifanlegri hefir þú auðsýnt oss hana; þú hefir hlíft oss fyrir verðskulduðu synda-straffi, fyrir slisum og líftjóni, engin almenn neyð hefir náð að granda oss, eða voru kjæra Føðurlandi; allar Vetrarins óblíður, allar þínar føðurlegu bendingar til vor, hafa stýlaðar verið með náqvæmustu vægð og vorkunsemi, já, øll þín viðhøndlan, ráð og vegir yfir oss, hafa verið einskjær miskun og trúfesti; vér høfum syndgað, vér høfum verðskuldað reiði, en þú hefir auðsýnt oss náð, æ! lát hana framvegis viðhaldast yfir oss, í Jesú nafni! géf oss með nýu Sumri nýa blessun! farsæl oss þínar gáfur, þitt lán og allar skepnur; farsæl vora útvegi, vort erviði og atvinnu, og allt það vér tøkum oss fyrir hendur til sjós og lands, í þínum ótta. Bjóð lopti,

jørd og sjó ad fœra oss þína blessun, en géf oss med þacklæti og sonarlegri audmýkt ad taka vid því øllu, hvørt þad verdur mikid eda lítid, sem þín speki álítur þénanlegt ad úthluta oss, til hagsælda og nota, af jardneskum gœdum þetta Sumar. Efl hjá oss stødugt trúnadar-traust til þinnar forsorgunar, og vardveit oss frá óþarfa výli og heidinglegri búksorg. Þú, vor himneski Fadir! veitst hvørs vér vidþurfum, uppfyll alla vora naudþurft, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi! Í hans nafni byrjum vér gladir Sumarid; géf ad þad verdi oss blessunarríkt og notasœl undirbúníngs- og fullkomnunar-tíd, til ríkuglegrar uppskéru á sídan í eilífdinni, Amen!



